


{Þess íslendska Evangeliska Smábóka-Fèlags rit No. 34} 34

Um

# Jacob Schneider

## áttatíu ára gamlan, umvendtan, bónda.

Utlagt úr Þýdsku.

---

Prestur nockurr, ad nafni Wilke, átti eptirfylgjandi samtal vid bónda þennan:

Presturinn spyr: hvad heitir þú, vinur? Bóndinn svarar: Eg heiti Jacob Schneider. En í stadnum Mehro, hvar eg á heima, kalla mig allir, og jafnvel bornin úti á gotunum, Bæna-Robba.

Prest. spyr: kanntu ad lesa og skrifa? Bóndi svarar: O nei! því medan eg var úngur, lærdi eg ecki ad lesa.

Pr. sp. Hvornig kémur þá þad til, ad þú kannt svo margar greinir úr Guds ordi, og hvorr hefir kénnt þér þær? B. sv. heil. Andi hefir upplýst mig; hann gétur gjort einn allt í einu lærdan. Því þegar Gud umvendti mér, þá kom mér strax ein og onnur ritningargrein í hug, sem eg ádur í prédikunum heyrt hafdi; og þegar eg eptir þad hlýddi á prédikanir gaf eg ofurvel gaum ad þeim, svo eg gat munad nærfelt alla prédikunina, og eg hefdi jafnvel gétad lesid hana alla upp aptur úr minni mínu, fyrir odrum; svo eg forundradi mig yfir því siálfur. Lika svo hefi eg lært marga sálma, af því sem eg hefi opt heyrt þá, svo ég gét nú súngid þá fyrir odrum; eins og eg hefi opt hlotid ad gjora í Altmark, fyrir þeim fátæku, sem þar eru.

Pr. sp.: Hvenær umvendtist þú fyrst? B. sv.: ári ádur enn sá sæli Prestur Sira Schade andadist (1697).

Pr. sp.: hvornig géck þad til med umvendan þína? B. sv.: þad géck mikid undarliga til. Þad ætladi fyrst ad fara

illa; en Gud gaf þad fór mikid vel. Prestur vor, í Arentsfeld hét Síra Richter, madur yfrid vandlátur, og sem hafdi nákvæma gát á tilheyrendum sínum. Undir eins og hann saknadi eins manns, sem ecki kom til kyrkjunnar, fór hann strax eptir messuna heim til hans, og spurdi, hvarfyrir hann hefdi ecki til kyrkjunnar komid? Nú bar þad eittsinn vid, ad vinnumadur minn hafdi forsómad ad fara til kyrkju, þá spurdi Presturinn mig ad, hvar vinnumadur minn væri? Eg sagdi: ad hann væri uppá milnuhúsinu; en hvort þad var satt edur eigi, man eg nú ecki aldeilis fyrir víst. Þegar eg þá Laugardaginn þareptir (eins og sidur er til hjá oss), géck til skrifta, þá tók Síra Richtar mig fyrir í skriftastólnum, og straffadi mig opinberliga fyrir øllum, og sagdi, ad eg hefdi logid þad ad sér, ad vinnumadur minn hefdi uppá milnuhúsinu verid, og ad eg væri, ásamt mínu fólki, helgidags smánari o. s. frv. Þessu eyrdi minn gamli Adam illa, ad hann straffadi mig svo opinberliga, í alls fólksins áheyrn; og eg vard svo gramur út af þessu, ad þó eg væri búinn ad gánga til skrifta, héldt eg mér samt frá sacramenti, sunnudaginn eptir. Eptir embætti kom nú Síra Richter til mín, og ávítadi mig enn beiskligar enn ádur, og sagdi: ad eg væri foraktari þeirrar heil. kvøldmáltídar og Guds ords; og kvadst ætla ad klaga mig fyrir yfirvaldinu, til þess þad ræki mig burt úr þorpinu, því eg væri þar allri blessun til hindrunar; ad eg ersídadi á sunnudøgum, og fleira þesshattar.

Prest. Wilke spurdi þá: hvernig fór nú eptir þetta?
B. sv.: æ sá elskuligi Gud géck eptir mér trúliga, og leitadist vid af frelsa mína veslu sálu. Því eittsinn þegar eg var úti á akrinum ad plægja, vard mér svo hastarliga illt, ad eg hlaut ad skilja vid plóginn, og fara heim til min. Þegar eg nú kom heim, snaradi eg mér uppí rúm mitt aptur á bak. Sem eg nú lá svoleidis, sýndist mér eg sjá fyrir framan mig eitt djúpt afgrunn, um hvad allt í kríng var hátt og óttaligt bjarg, og svo vyrdtist mér einhvorr kæmi og segdi til min: "Jacob! ef þú gjorir ecki sanna ydrun og umvendir þér, þá verdur þér steypt

ofan í þetta djúpa afgrunn.". Utaf þeſsu vard eg daudans hræddur og óttaſleiginn. Eg ſagdi frá þeſsu konu minni, og vildi fá hjá henni huggun. Þá hljóp hún til nágranna ockar og bad hann ad koma, og reyna til ad hugga mig, því eg væri fallinn í orvæntingu. Hann kom þá med biblíu ſína hlaupandi; en þá var ſvo ſem einn blindur vildi annan blindan leida. Þeſsvegna hlaut eg loksſins ad melta þeſsa hugarángiſt þegjandi med mér, og ſagdi eingum manni framar þar frá.

Pr. ſp.: hvornig fór nú framvegis? Jacob ſv.: Þegar eg eittſinn kom af akri, og vildi gánga heim til mín, mætti mér Preſtur ockar Síra Richter á leidinni, taladi til mín og ſagdi: Jacob, hvornig lídur þér nú, heldur þú enn uú vid þitt gamla vonda ſinnislag? viltu ecki enn nú betra þig, og ſnúa þér til Guds? o. fl. En rétt í því hann taladi þeſsum ordum til mín, umbreyttiſt allt í einu ſinni mitt, og eg fann þad gloggt ſjálfur, ad hjartalag mitt vard allt odruvíſi; því þad hatur og reidi, ſem eg ádur bar í gédi mínu til hans, breyttiſt undir eins í hjartanliga elſku, ſvo eg hefdi gjarnan géfid honum allt hvad eg átti í eigu minni.

Nú ſpyr Preſturinn Wilke: hvornig fór nú fyrir þér framvegis? Jacob ſvarar: Eg tók fyrir mig, ad bidjaſt fyrir, og þá veitti ſá gædſkuríki Gud mér ſtóran fognud og ſætleika, og rétt ſem forſmeck eylífs lífs, ſvo eg óſkadi mér þúſundſinnum, ad eg mætti í því áſtandi ſtrax deya.

Þá ſpyr Preſturinn: var þad leingi ſem þeſsi fognudur varadi vid hjá þér? Jacob ſvarar: æ nei! eg komſt þar eptir í þúngbæra ydrunar oruſtu, í hvorri eg hlaut lengi ad ſveitaſt. Fyrſt komſt eg undir ógnanir Guds logmáls, ſvo eg mátti, meir enn heilt ár, finna í mér til réttrar helvítis ángiſtar. Nú gat eg ecki lidid þad allraminſta rángfengid yóts í eigu minni, heldur vildi eg gjalda þad tífaldliga aptur. Eptir þetta komſt eg þó í þá allra hordustu oruſtu, nefniliga: inní ofn vantrúarinnar, og þad varadi aptur heilt ár. Þá fanſt mér eckért annad í ſálu minni, enn ad eg hlyti eylífliga ad fortapaſt og fordæmdur

verda. Midt í þessari stóru ángist stód eg eittsinn úti í gardi mínum, undir einu eplatré, og þenkti svoleidis med mér: þú skalt nú snúa þér aptur til heimsins, og lifa, eins og þú lifdir ádur, og eins og adrir lifa, sem ala þá von, ad verda hólpnir, ag vita ekkért af þeirri ángist, sem þú reynir, ad segja. En þá var þad fyrir mér, eins og einhverr skyldi hafa til mín sagt: ef þú snýr þér til heimsins aptur, þá skaltu tíusinnum meira typtadur verda. Og þá tók eg þann fasta ásetníng fyrir mig, ad eg aldrei skyldi mér aptur til heimsins snúa; þad mætti kosta, hvad þad kosta vildi. Í þessari ángist staddur, þá eg fann til einkis med mér, nema reidi Guds og ónádar, géck eg til stadarins Arensfeld, til ad finna Prestinn, og kvarta fyrir honum yfir neyd minni. Á leidinni þángad, út á mörkinni, féll eg á mín kné, hrópadi sárgrætiliga til Guds, og rétt sem setti honum fyrir sjónir, hvar fyrir hann hefdi skapad mig, og haldid mér svo lengi vid lídi? hvar fyrir hann hefdi med svo dýru verdi endurleyst mig, ef hann léti mig ad lokunum verda fortapadan?

Nú spyr Presturinn Wilke bóndann og segir: varstu þá lengi í þessu ástandi? Jac. sv.: eg hlaut í þessu ástandi og ángist ad vera heilt ár, allt til þess sá gódi Gud leiddi mig inní Evangelíum; svo eg gat ödlast fullvissu um þad, ad eg fengid hefdi syndanna fyrirgéfníngu, og væri ordinn Guds barn. Og í því ástandi stend eg, fyrir Guds nád, allt til nálægrar stundar.

Prest. spyr: hvernig var nú þínum fyrri lifnadi háttad? Jac. sv.: æ Gud nádi þad! Eg lifdi sona áfram í blindni; reiddi mig uppá þad, ad eg gengi til skrifta og altaris, og færi til kyrkju; hvad eg líka kostgæfiliga rækti, og lifdi þar fyrir utan skickanligu líferni, var ástundunarsamur í kalli mínu og erfidi þó einasta af búksorg og ágyrni; eg galdt líka yfirvaldinu skyldur mínar, med gódum skilum og í réttan tíma, svo þad og adrir voru vel ánægdir yfir mér o. sv. frv. En midt í öllu þessu var eg þó úumvendtur og óendursæddur. Því fæ eg Gudi aldrei fyrir þad fullþackad, ad hann svolengi umleid mig midt í blindni

þeßari, og ad hann sídan vyrdtist, á mínum efra aldri, ad hrífa mig út úr þeßari villu.

Presturinn segir þá vid hann: Svo hefir þú þá ecki haldid þinn skýrnar sáttmála? Jac. sv.: Æ nei! því midur! en nú veit eg ad eg er endurfæddur ordinn fyrir heil. Anda, og uppá þad þori eg ad reida mig, og med vißu vænta mér eylífrar sáluhjálpar.

Presturinn spyr: hvornig fór nú fyrir þér, þegar þú tókst til ad byrja annad lifernis lag? Jac. sv.: O, þá hlaut eg margt ad lída. Nábúar mínir vildu, rétt med grjótkasti, reka mig burtu úr býnum. Svo lengi sem eg skipti mér eckert af athæfi þeirra og þagdi, gátu þeir sæmiliga lidid mig. En þegar eg sagdi til þeirra: yckar ránglæti, yckar dryckjuskapur, yckar dansleikar og bílífi eru synd fyrir Gudi, og þegar eg vildi ecki gjöra þetta ásamt þeim, þá steyttu þeir mig út, hotudu mig alvarliga, og ef þeir hefdu þorad, held eg þeir hefdu opt barid mig nærri til dauds. Og þegar Presturinn straffadi af prédikunastolnum eina edur adra synd, sem þeir fundu ad hjá sér heima átti, var þad alltíd vidkvædid: þetta hefir bæna-skélmirinn sagt honum af ockur.

Nú spyr Presturinn bóndann Jacob: hefir þú þá ecki gétad fengid hjá yfirvaldinu vernd fyrir annara áráfum? Bóndi sv.: æ nei! Gud hefir einúngis verid mín vernd og hjálp. Hússóvetinn, sem vort yfirvald, var mér ad sønnu lidhollur, af því mér búnadist rétt vel, og eg galdt skilvísliga allt hvad mér bar, en annars hafdi hann mig ad tómu spotti. Einusinni lét hann kalla mig til sín, þegar hann héldt undirsátum sínum og fólkinu haustgildi, eptir þad þeir flutt høfdu (æru-) kransinn inn til hans, vid hvort tækifæri þeir og svo donsudu. Nú sem hann stód hjá mér út vid gluggann í stofu sinni, sagdi hann til mín: Jacob! hvad sýnist þér; er þad nú synd, þó eg leifi fólkinu ad gjöra sér þetta litla til skémtunar? Eg svaradi: minn kæri Herra! þér vitid hvad Postulinn hefir sagt: "þegar gyrndin hefir gétid, fædir hún syndina; en nær syndin er fullkomnud, fædir

hún daudann." Þetta gramdist honum svo mjög vid mig, ad hann vildi láta klæda mig, til spotts, í þá spónsku kápu. En sem Presturinn Richter komst ad því, sagdi hann honum: ad ef hann gjördi þad, væri þad svo gott sem hann gjördi þad vid sjálfan Kristum. En upp frá þeim tíma hefir hann samt alltíd offsókt mig. Þegar Sira Richter var dáinn, svo þetta kall var laust, prédikadi þar Prestur einn frá Fridriksfeld, um tíma, og tók vld fólki, en hann héldt þó, hvörki fyrir né eptir sakramentisgaunguna, neina ámíningar-rædu til þeirra sem til Guds bords geingu. Þegar eg nú eittsinn géck úr kyrkjunni, sagdi eg til eins af nágrønnum mínum: Presturinn hefir ad vísu embættad, en sálirnar hefir hann þó ecki sædt, né til Kristum leidt. Þessi mín ord færdi nágranni minn til yfirvaldsins, og bætti þeirri lýgi vid: Jacob Schneider hefir sagt: ad Presturinn mundi eins fúsliga hafa géfid svínum kvøldmáltídina; hvad eg þó aldrei sagt hafdi. Þar eptir lét húsfóvetinn kalla mig fyrir sig, og sagdi til mín: Jacob, hvar fyrir dæmir þú svoleidis Prestinn og talar illa um hann? Eg svaradi: svoleidis hefi eg ecki talad, heldur svo og svo. Þá sagdi sóvetinn: hvor hefir gjört þig svo vitran (ad þú þorir ad segja þetta)? Eg svaradi: er þá einginn hærri til yfir oss? sá sem yfir ockur er, hann er nógu vitur og vel ad sér; hann er sá sem mér hefir géfid, þetta ad þeckja.

Presturinn spyr Jacob enn framar: hefir þú þá ecki þurft annad fleira ad lída? Jac. sv.: Sá besti titill (sem eg féck hjá fólki) var þessi, ad þad kalladi mig bæna-skélmirinn. Einusinni heimsókti mig einn vìss Prestur, og þegar hann fór aptur burtu frá mér, fylgdi eg honum á veg; og á leidinni féllum vid bádir á kné undir einu birkitré, til ad bidjast fyrir. Þetta hlýtur einhvørr, sem í þeim sömu svifum hefir þar fram hjá gengid, ad hafa séd, og borid þad út í almenning; og bætt því vid, ad vid hefdum bádir setid uppá byrkieykinni, og verid ad bidjast fyrir, þar vid hefdum viljad heyra Englana sýngjandi; en þegar vid hefdum einn þeirra séd, hefdum vid ordid hræddir

og stockid ofanuudir eykina. Í frá þeim tíma hefir sá Prestur ecki til mín komid.

Nú spyr Sira Wilke Jacob enn framar ad: En hvornig líkadi konu þinni vid þig fyrir þetta? Jac. sv.: Kona mín vildi í upphafi ecki vera á mínu máli, heldur var alltíd á móti mér; einkum þegar eg vildi bidjast fyrir, ásamt med henni. Og ef einhvorr skadi fell til, medan bænagjordin stód yfir — med hvort slag sem það var — kéndi hún mér æfinliga um það. En smátt og smátt tók hún samt ad fylgja mér; og Gud hefir vissuliga umvendt henni, ádurenn hún skildi vid, sem skéd er fyrir hálfu þridja ári sídan. En hún hlaut þó ad útstanda stránga ydrunar orústu, midt í því ad hún, í hálft ár, vard sjúk ad liggja í sænginni, inn til þess hún deydi. Annars kom ockur vel saman, í odru tilliti.

Prest. sp.: hvornig bar það undir, ad þú komst í kunníngskap vid Mag. Schade? Jac. sv.: það kom svo til, ad Prestur vor Sira Richter var í vinskap vid Sira Schade, og kom þessvegna endur og sinnum til Arensfeld ad heimsækja hann, hvar eg þá komst í kynni vid hann. Eg géck og þareptir nærfeldt á hvorjum Laugardegi til hans í Berlín, og var þar sunnudaginn út, til ad heyra hans prédikanir og yfirheyrslur, og sídan géck eg ad kvoldi aptur heim til mín. Opt undradi eg mig yfir því, hvorsu sá madur gat uppbyggiliga prédikad, þar hann, vegna síns mikla annríkis, hafdi þó lítinn tíma til ad studera. Oft stód hann út vid gluggann í húsi sínu, þegar hann ætladi ad gánga í kyrkjuna, og néri á sér hendurnar.

Presturinn spyr bóndann enn framar: hvornig kom það til ad þú varst kunnugur Hra. von Canstein? Jac. sv.: þessi Herra var eittsinn til gésta hjá bródur sínum í Blúmberg. En af því hann var einn mjog frómur Herra, og gladdi sig yfir því, þegar hann heyrdi eitthvad minst á mig vid hann; þessvegna vóru mér gjord bod, ad koma til Blúmberg; en það hafa líka sumir gjort, ad líkindum, til ad hafa mig þar ad spotti. En Gud gaf mér nád til, ad halda fyrir þeim skarpa prédikun.

Því þegar eg kom þángað, og þeir allir voru setstir til borðs hlaut eg að fara til gartnersins, til að borða hjá honum; en eptir máltíðina átti hann að leiða mig út í garðinn, hvar þeir framandi géstir voru að reika allt um kríng. Þeir komu þá allir sem í þyrpíngu þar í kríngum mig, og voru að skoða þau fögru blómstur og tala um þau sín á milli. Þá sagði eg til þeirra: já vissuliga eru þetta fögur blómstur, sem vegsama sinn skapara og til þess erum vér líka svo skapaðir, að vér það gjöra skulum. En vér gjörum það ecki, né gétum gjört það, af því vér erum af syndinni spilltir; vér hljótum því fyrst að verða innplantaðir Kristo, og af heil. Anda endurfæddir, ef vér viljum Guð vegsamað géta; og fyrir því, að það skéð gæti, ætti einn og sérhvor að sorga o. s. frv. Guð gaf mér í þetta sinn stóra náð, svo eg gat mikið og margt talað; og það var líka sem Guð minn góður, blési mér því í brjóst, því alvörugéfni mín í talinu varð mikil. Og þar voru víst nockrir, sem það tók svo á, að þeir hrærðust þaraf, því eg varð var við, að sumir fóru að gráta. En nú kallaði Herra v. Canstein mig til sín, og géck ásamt mér inní lystihúsið (í aldíngarðinum), hvar eg hlaut að setja mig niður hjá honum. Las hann þá fyrir mér einn kapitula úr bibliunni; og sem hann búinn var að lesa hann, gjörði hann útskýríngu yfir hann, og á það heyrðu nockrir, sem voru þar á bak viðarbúskanna. Eptir það gengu þeir í kríng í garðinum, einn hér og annar þar, og voru sem niðurslegnir og frá sér numdir. En nú géck Herra von Canstein uppá slotið, og eg hlaut að fara þángað með honum. Þá snéri hann sér við, að mér, og mælti: hvernig líður þér, þar sem þú átt heima? Eg sagði: það er nú heldur bágliga; því fólkið í Mehro, vill reka mig þaðan í burtu. Þá svaraði hann: komdu til mín, eg skal forsorga þig svo lengi sem þú lifir. Og það hefir hann líka trúliga gjört.

Pr. spyr: hefir þú annars optliga komið á hans fund?
B. sv.: já! eg géck opt eptir þetta til hans í Dalavitz. Hann héldt sjálfur bænatíma ásamt fólki sínu; og hann géck ogsvo

þar fyrir utan dagliga út af fyrir sig, ásamt konu sinni og skrifara, inn í eitt herbergi, hvar eg ogsvo alls einusinni var staddur med honum; þar féll hann, ásamt ockur, á kné og badst fyrir; og þetta gjørdi hann dags dagliga. Margir kølludu hann, af spotti, fyrir þetta, prestaþræl. Loksins tók Herra v. Canstein mig, fyrir 13 árum, uppá landgóts sitt Schøneberg í Altenmark; þar átti eg ad halda bænastundir med þeim fátæku, sem høfdu þar uppheldi á fátækra-húsinu: og þadan er eg nú forst, fyrir 2 árum, eptir dauda konu minnar, kominn aptur til dóttur minnar í Mehro.

Framar spyr Presturinn: hvørnig ertu í kynni kominn vid Profeßsor Franke? Jacob sv.: þad skédi hjá Hra. v. Canstein í Berlín, því þá heyrdi eg Hra. Franke prédika; og þegar eg taladi vid hann hjá Hra. v. Canstein, spurdi eg hann: hvørnig hann hefdi ødlast slíka nád (ad prédika svo vel)? Hann brosti þá vid, og sagdi: eg vard nýr manneskja. Annars hefi eg, ad eins einusinni edur tvisvar vid hann talad. Einusinni hefi eg líka svo verid á bæn med honum; en vid urdum snart hindradir þar frá, sokum þeß adrir adkomu, sem vildu finna hann.

Nú spyr Presturinn framar: hvørja merkismenn fleiri hefir þá komist í kynni vid? Bóndinn Jacob svarar: vid Dr. Petersen hefi eg einusinni talad, hjá Hra. Prófasti Porsten; hann var mikid vingjarnligur madur, fullur af elsku.

Þá spyr Presturinn: hvørja meiníngu hefir þú um endurskickun allrahluta? Jacob sv.: um þad efni sýsla eg eckért, því eg finn eingan vißsan grundvøll fyrir því í heil. ritníngu, og einga grein sem þad ljósliga sýni. Drottinn Jesús Kristur hefir sagt: "þeirra ormur deyr ecki, þeirra eldur sloknar ecki." Vid þau ljósu ord held eg mig, svovel sem þeßsi: sæll er sá sem hlutdeild hefir í hinni fyrstu upprisu! og eptir því sæki eg af øllu megni, ad eg þarí hlutdeild hafi. Um hitt annad — sem ritníngin ecki berliga kénnir — þó (fljótt á ad líta) ad Guds kærleiki sýndist þaraf vegsemd hafa — gjøri eg mér einga þánka. Manni ber ad eins, medan nádartíminn yfir-

stendur, ad halda sér í sannri ydrun og trú til Drottins Jesú, og þacka hönum fyrir sína Endurlausn. Og þá mun madur ecki þykjast nógsamliga géta þackad Gudi og vegsamad hann fyrir þad, hér og í eylífdinni. Eg segi fyrir mig: eg gét ecki nógliga þackad Gudi þar fyrir; en ef eg ecki gjördi þad, sem eg gæti, þá hlyti eg þar fyrir þúngan reikníng ad standa. Því til hvörs værum vér ella skapadir, og til hvörra nota værum vér í heiminum ef vér ecki vildum lofa Gud og vegsama hans heil. nafn? Sá sem ecki lofar hann hér í tímanum, mun vart í eylífdinni koma til þess ad lofa Gud, og verda í selskap þeirra heil. Engla.

Sídan spurdi Presturinn: hefir þú nú komist í kunníngskap vid nockra fleiri adra menn, enn þá áminstu? Bóndi sv.: Í Altmark komst eg í kynni vid nockra, sem héldu samkomur, en þó ecki í kyrkju neinni; þeir gengu og ei heldur til Drottins kvöldmáltídar og hofnudu hjónabandi. Eg sagdi þá til þeirra: ad þad væri hid óhultasta ad vér fylgdum beint fram Guds ordi, og yfirgæfum ecki vorn söfnud. Ad þó ad svo margir vondir og gudlausir gengju til kyrkju og Guds bords, gæti þad oss ecki skadad; vér hlytum ad umlída þá, eins og Gud umlídur oss; vér ættum miklu heldur ad géfa þeim gott eptirdæmi, og leitast svoleidis vid ad ávinna þá. Því ef vér ecki héldum fast vid audmýktina, kynni djöfullinn brádliga ad fella oss í andliga drambsemi. Sídan spurdi eg þá: hvar fyrir þeir skúfudu egtaskapnum; því madur gæti þó víst med gódri samvizku lifad í hjónabandi, þar Gud siálfur hefdi þad tilsett. Eg gat þessvegna ecki komid mér saman vid þessa menn, enda þó þeir væru opt hjá mér (og leitudust vid ad snúa mér á sitt mál).

Prest. spurdi bóndann enn framar: hvad heldur þú um umvendun Gydínganna? Bóndinn sv.: þad er aldeilis víst, ad hún skédur á sínum tíma; því Páll postuli hefir sagt: "Forherding er komin yfir einn part af Israel, allt þar til uppfyllíng heidíngjanna er komin, og svo mun allur Israel hólpinn verda." Róm. 11, 25.

Presturinn spyr: Segdu mér, hvört álít þú hefir um

ástand verra tíma? Bóndinn sv.: mér er í grun, ad snarliga muni hormúngar tídir yfir oss falla. Gud vægi oss! Eg bid Gud þess ydugliga í minni bæn, ad hann vyrdist ad eydileggia ecki þá réttlátu, ásamt med þeim gudlausu. Væru þar enn nú ecki margir til, sem stædu (líka sem) í vegi fyrir Drottni (Ezech. 22, 30), þá mundi aumliga, nú allareidu, líta út fyrir oss.

Prestur spyr: hvornig hefir þú nú hegdad þér í egtaskap þínum og bústjórn? Bóndi sv.: í fyrstu, eins og eg hefi ádur sagt, var kona mín opt móti mér; en seinast umlidum vid hvort annad, eins og born í kærleika og eíníngu, einkum eptir þad vid komum til Altmark og Schonberg; þá tók hún kostgæfiliga ad bidjast fyrir, ásamt mér, og eg er viss um ad hún dó sáluhjálpliga. Annars skédi þad opt fyrst í stad, þá eg var nýumvendtur, og stód enn nú undir logmálinu, ad eg vanrækti nockud í búskapnum; og af því eg vildi ecki láta ónáda mig, þegar eg var á bæn minni, féll stundum einhvorr skadi til, annadhvort í húsinu edur úti á morkinni; en þó bætti Gud mér alltíd þann skada aptur. Gudhrædt þjónustufólk hefi eg aldrei haft. Eg ad sonnu héldt heimilis fólki mínu og áminnti þad til góds, einkum ad þad kvold og morgun skyldi vera vid húsbænagjordir; en þad hlýddi mér optsinnis ecki til þess, og á sunnudaga lét þad mig ecki sjá sig. En dætur mínar hlutu kostgæfiliga ad lesa á sunnudaga í Professor Franks postillu, hvorja hann sjálfur hafdi géfid mér. Á kvoldin lét eg þær lesa í biblíunni, og spurdi þær sídan alltíd þar hjá, þegar einhvor ritníngargrein fyrirkom, sem midadi til sálarinnar ástands: "æ! hefir þú nú reynt þetta hjá sjálfri þér, mitt kæra barn! O! þú hlýtur ad bidja Gud, ad hann láti þig slíkt reyna o. s. fl." Mín eldstá dóttir, sem fyrir hálfu ári sídan dó af barnsforum, óttadist Gud af hjarta. Hún hafdi margar hardar freistíngar vid ad strída, og hlaut margt ad lída. Eg veit ad eg fæ ad sjá hana aptur í himnaríki. Um hina adra dóttur mína hefi eg líka svo góda von.

Prest. spyr: hefir þú ecki ordid var vid neina sérliga Guds

blessun í búskap þínum (síðan þú umvendtist)? Bóndi svarar: Þegar húsbruninn skêdi hér í Blúmberg um árið, og margt fátækt fólk kom til mín, og bað mig um hitt og þetta, þá gaf eg einum og sérhvorjum með sér málsvorð af ertum mínum; af øðru átti eg ecki neitt til; og hafði seinast ecki eptir nema eina sképpu til útsáðs. En allt til þessarar stundar má eg blygðast mín fyrir það, nær eg til þess hugsa, hvorsu sá góði Guð endurgaldt mér ríkugliga, það sem eg þá að einføldu hjarta gaf þeim fátæku. Því af þessari einu sképpu útsæðis fékk eg 12 sképpur aptur, sem var auðsjáanlig Guðs blessan; og það af góðum og stórum baunum.

Prest. spyr: hvornig líkaði nú konu þinni við þig fyrir það, að þú gafst svo mikið fátækum? Bóndi sv.: opt sagði hún við mig: hvað hugsarðu, kæri! þú ætlar að géfa burtu skyrtuna af kroppnum. En eg var alltaf hughraustur og með góðu gédi, og sagði: nei, elskan mín! Guð mun blessa ockur samt. Já, það varð og að sønnu; Guð blessaði ockur svo, að við høfðum alltíð nógan forða. Aðurenn eg umvendtist erfiðaði eg dag og nótt; var þartil ágjarn, og niðursockinn í þetta tímanliga, og þó hafði eg opt valla málúngi matar; en eptir það eg umvendtur varð og tók að biðjast kostgæfiliga fyrir, og að fremja erfiði mitt í Guðs ótta, hefi eg aldrei neinn skort liðið.

Prest. spyr: en hvornig er nú sem stendur ástatt um hagi þína? Bóndi svarar: í tilliti þess líkamliga hefir Guð í elli minni forsorgað mig, og eg kann ecki nógsamliga að þacka honum fyrir það, að eg enn nú lifi, og hefi eckí þurft að þyggja uppheldi af børnum mínum. Því eg fæ árliga af arfi þess sál. Herra v. Canstein, svo lengi eg lifi 22 Rixdali, af hvorjum eg legg með mér til dóttur minnar fyrir fæði og þjónustu 12 Rixd. en hitt annað brúka eg til klæðnaðar. Fyrir þetta er eg því meir skyldugur til að lofa Guð og hann kostgæfiliga að tilbiðja, sem eg síður gét neitt annað til gagns gjört í heiminum.

En framar spyr Presturinn: segðu mér nú, vinur! hvornig

madur skal ad því fara, ef hann vill sáluhólpinn verda? Bóndi svarar: Hann hlýtur ad endurfædast. Því Drottinn Jesús segir þad sjálfur ljósliga, hjá Jóh. 3, 5: "sannliga, sannliga segi eg þér (sagdi hann vid Nicodemum), nema svo sé, ad nockurr verdi fæddur af vatni og anda, kann hann ecki ad komast í Guds ríki." En til þess ad verda endurfæddur, er bænin þad allra-naudsýnligasta; því bidji madur alvarlig í Anda og sannleika, mun Gud vissuliga bænheyra hann. Því svo lengi madur verdur ecki bænrækinn, svo lengi verdur eckért af hans umvendun. En þá hlýtur madur líka ad umflýa allan vondan selskap, alla rángsleitni, dryckjuskap, spil, dans, og allsháttar bílífi; samt alla hégómliga dármensku. Og þegar madur er ordinn sannarliga umvendtur af hjarta, svo fær hann ei heldur af sér, ad fremja nockud þvílíkt, heldur fær hann þá vidbjód á ollu soddan; já gétur ecki heyrt né séd þad til annara, án þess hann vid þá ad því finni. En yfir þessu furda heimsins born sig stórkostliga, og géta alls ecki lidid þad, ad madur vandi um þeirra synduga liferni, og setjast þessvegna á slíka menn, og vilja, ef géta, hrekja þá burt úr sínu samfélagi. En þad er mikid gott merki á þeim, sem fyrir því verda, ad menn vilja slíkum, fyrir þeirra gudliga vandlætis skuld, burturýma. En hvar sinna menn í sóknum edur sveitum til þess dæmi? Tilnefni mér þad nockurr! En svo lengi þad ecki finst, kann madur ei heldur med vissu ad segja ad nockurr sé sannarliga umvendtur. Því sé þad, hlýtur þad altíd ad láta sig í ljósi; því þá tekur sá sami ad lifa allt odruvísi enn ádur, svo heimsins born géta hann ecki lidid. En þegar madur verdur nú þessarar orsakar vegna hatadur og smádur af heiminum, þá skal hann þess kostgæfiligar bidjast fyrir, og verda ecki latur í bæninni. Því undir eins og madur tekur ad verda latur í henni, fer manni smámsaman aptur í gudhrædslunni. En þar fyrir utan, hlýtur madur allar vitanligar syndir ad fordast, og þá styrkir Gud og leidir mann, æ betur og betur. Þeim flestu hættir vid því, ad þegar þeir verda fyrir spotti og forakti fyrir gudhrædsluna, þá

láta þeir slíkt halda sér aptur frá sannri ydrun og Kristindómi, og óttast meir mennina enn Gud. En hvornig viljum vér géta loksins kórónuna ødlast, ef vér eckért lida viljum? Nei, vér skulum miklu heldur gledja oss þar yfir, og hugsa til Jesú orda (Matth. 5, 11. 12): "sælir erud þér, nær mennirnir hata ydur og ofsækja fyrir mína skuld, og tala um ydur allt íllt, ef þeir þad annars ljúga". Øll hædnis nøfn munu loksins verda ad perlum í vorri sigurkórónu. Eg hefi siálfur mátt reyna þetta, því ad kallast "bænaskélmir" var sá besti titill, sem eg féck. En Gud lætur ecki sín børn vera huggunarlaus í hørmúngunum.

Loksins spurdi þá Presturinn Wilke, bóndann Jacob: hefir Gud nú ecki ogsvo audsýnt þér neina stakliga nád (í andligum efnum)? Bóndinn svarar: O jú! Gud hefir eittsinn leidt mig rétt sem inní brúdarstofu Jesú Krists, og þá feck eg mikid margt ad siá, heyra og smacka. En eg má ecki frá því segja. Madur hlýtur alltaf ad standa stødugur í audmýktinni. Og hér med var nú lokid samtalinu þeirra á milli.

Eptir þetta segist Presturinn Wilke hafa sagt hønum frá, hvørsu hann vissi þó til, ad Gud hefdi hér og þar mørgum umvendt, og hvørsu hans nádarverk auglýstu sig nú á mørgum stødum. Yfir þessari søgn gladdist nú Jacob mjøg hjartanliga, og sagdi þar hiá: þegar eg heyri gétid einhvørstadar um einn trúlyndan prest, edur um einhvørn þann sem er sannumvendtur og gudhræddur, verd og inniliga gladur, og fæ í mig hjartanliga elsku til þvílíkra manna. Sérílagi óskadi hann, ad hann fengi, ádur enn hann dæi, ad tala vid einn vissan Prest, sem hann á nafn nefndi, og kvadst vilja ferdast til hans. Þad hittist og líka svo á, ad eg um Mikaels messu leiti, árid 1733, ætladi ad reisa út til Uckermark, hvar í nánd Prestur sá bjó, er Jacob vildi finna. Lét eg þá spyrja hann ad, hvørt hann vildi ecki verda mér samferda. Hann kom því til mín þann 6ta September; og þó hann væri þá ad vísu kránkur, svo eg var hræddur um, ad hann kynni ad verda siúkur á leidinni, þá tók eg hann samt med mér, og vid komum svo þann 8da Sept.

luckuligu þángad sem áminstur Prestur átti heima. Þar var þá margt vid hann talad, og af honum ad heyra, sem sannliga væri uppbyggiligt frá ad segja, ef vér þad allt uppskrifad hefdum. Medal annars áminnti hann þær Gud elskandi sálir, sem hann fann í þeim stad, mjög hjartanliga til, ad þær skyldu stödugliga halda sér í audmýktinni. Þær skyldu vara sig vid þeim skadsliga lesti, ad dæma adra; því undir eins og einn færi annan ad dæma; kæmust þær uppbyggiligu samkomur, (sem, á þeim tíma, haldnar voru til gudhrædslu æfinga), í óreglu. Um þetta kvadst hann, á tímum prestsins Schade, hafa komist ad raun; því þá sagdi hann, ad margir hefdu verid í Berlín, sem haldid hefdu samkomur til ad fremja bænahald og yfirvega Guds ord; en þegar þeir hefdu tekid til ad dæma hvorr annan, þá hefdu þeir allir aptur sundurtvístrast. Þegar vid nú komum aptur til baka frá Uckermark, var andi hans mikid endurnærdur og lifandi, og þegar hann skildi vid mig sagdi hann: ad hann ydradist nú ecki eptir því, ad hann reist hefdi í for med mér, því þad hefdi gjört sér mikla andliga gédhressíngu, og hann þackadi Gudi fyrir þad. Nú lángadi hann mikid inniliga til ad deya, og þóktist allareidu finna þad á sér, ad hann mundi ecki lifa lengi þareptir. Þetta var og í sídarsta sinn, sem eg vid hann tal átti. Því skommu þar eptir, árid 1734, vard hann sjúkur, og hafdi, midt í sínum sjúkdómi, hjartanliga laungun eptir, ad tala vid mig ennnú eittsinn; en mér var þad ecki tilkynna géfid. Hann deydi svo sæll í Drottni þann 3ja Febrúar árid 1734. Géfi Gud ad þessi litla frásaga ordid gæti nockrum til uppbyggíngar!

 Hvorr sem af gudligum kærleika styrkja vill augnamid þess íslendska evangeliska Smá-bóka-Félags, med gáfu nockurri, skal fá í rentu af hvorjum 1 Rbdl. gáfannar 1 ark prentad, ókeypis, árliga.